Gísli Egilsson

# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

8. árg. WINNIPEG, OKTÓBER 1893. Nr. 8.

## *DAVÍÐS SÁLMR 78.*

Eftir *séra Valdemar Briem.*

(Lag: Í fornöld á jörðu var frækorni sáð.)

1. Nú hlýð þú, mitt fólk, á þau fornsöguljóð,
er flytja nú vil eg um Ísraelsþjóð.
Frá atburðum gömlum eg herma vil hér,
er heilögu feðrnir kennt hafa mér.

2. það eigi eg komandi kynslóðum dyl,
þeim kunngjöra stórmerkin drottins eg vil,
svo geymist sú frásögn í Ísraels ætt
og ætíð vér fáum hans boðorða gætt:

3. Að baki' átti Ísrael óvígan her,
en ólganda hafsdjúpið fram undan sér.
þá drottinn klauf hafið, það hátt stóð sem múr,
og hættulaust komust þeir vötnunum úr.

4. En mörkin var fram undan geigvæn og grimm,
og grásvört var þokan, og nóttin svo dimm.
Á daginn þá sendi guð blikuský bjart,
er birti með eldstólpa náttmyrkrið svart.

5. Og gangan var þreytandi, þorstinn var megn,
og þar var ei lækr, né brunnr, né regn.
Þá sló guð á klettinn, svo klofnaði hann,
og krystalskær svalandi lind þar fram rann.

6. Þar spratt ei svo mikið sem stingandi strá,
og stórlega hungrinu kenndu þeir á.
Þá sendi guð vindinn með fuglanna fjöld
og fæðunni rigna lét himnanna tjöld.

7. Þótt björt yrði nóttin, í sálu var svart,
þótt sundraðist klettrinn, brjóstið var hart,
þótt þornaði hafið, ei tœmdust þeim tár,
þótt til væri gnœgtir, ei mettuðust þrár.

8. Þeir mettuðust aldrei, en mögluðu títt,
þá meira þeir fengu, þeir heimtuðu nýtt.
Þá reiddist guð drottinn, í reiði þá sló,
í reiðinni jafnvel þeim líknaði þó.

9. Hann minntist, að lífið sem augnablik er
og andinn sem gustr, er kemr og fer.
Hann aumkaði börn sín, hann leiddi sinn lýð
og landið hið fagra þeim gaf hann um síð.

10. Þeir voru þó baldnir og óþægir enn
og egndu sinn drottin, ó, vesalir menn.
Í fjandmanna hendr hann falla lét þá;
þá fólkið loks kallaði drottin sinn á.

11. Þá vaknaði drottinn, sú hetja vor hraust,
úr herlúðrum sínum hinn alvaldi brauzt.
Á flótta rak drottinn þá fjandmanna her
og fólkið sitt glataða tók hann að sér.

12. Á Síon hann reisti sér háreista höll,
til himins er gnæfir og traust er sem fjöll.
Hann valdi sinn þjón til að leiða sinn lýð.
Ó, lof sé þér, drottinn, um eilífa tíð!



## SKÓLAMÁLIÐ.

Á kirkjuþinginu í sumar var lögð fram skýrsla um skólasjóð kirkjufélagsins, sem sýndi, að hann nam þá $1462,92 að upphæð. Hafði hann á árinu næst á undan aukizt um $216,50. En af þeim $216,50 voru $101,07 vextir af sjóðnum á árinu, svo að tillögin eða gjafirnar til sjóðsins höfðu að eins verið $115.43. Er það svo lítil upphæð, að vér, sem höfum verið að burðast með þetta skólamál nú í nokkur ár, getum naumast verið annað en eyðilagðir, ættum helzt að skammast vor niðr fyrir allar hellur út af því, hve aumlega hefir í síðustu tíð gengið með þetta mikla velferðarmál kirkju vorrar og hins íslenzka þjóðflokks yfir höfuð. Á árinu næsta á undan þessu síðasta numu tillögin til skólasjóðsins $465,50, fyrir utan $86,65, sem kom inn í sjóðinn fyrir sölu 1. árgangs *Aldamóta.* Frá þessu var skýrt á kirkjuþinginu í fyrra sumar, og var þá gefið í skyn, að meira fé hefði mátt safna til sjóðsins það ár, ef prestar kirkjufélagsins hefði ekki af gildum tilgreindum orsökum að miklu leyti verið hindraðir frá að leita samskota. Og svo er að orði komizt í áliti skólamálsnefndarinnar, sem lagt var fram og staðfest á því kirkjuþingi, að „ef skólamálinu ætti að þoka eins vel áfram og unnt er, mætti ekki koma minna inn í skólasjóð á hverju ári en $1000-00.“ Og fylgir þessum ummælum svo látandi viðbót: „það er sannfœring nefndarinnar, að þetta gæti vel látið sig gjöra, ef erindsrekar safnaðanna gjörðu allt, sem í þeirra valdi stœði, til að auka áhugann meðal safnaða sinna fyrir málinu og nota hvert tœkifœri til að fá fé inn í skólasjóð.“

Með þessa hugvekju í hjörtunum fara kirkjuþingsmenn heim til sín, og svo safnast í skólasjóð árið þar á eftir einir $115,43!

það er augsýnilegt, að annaðhvort hefir áætlanin um það, hvað minnst skyldi koma inn í skólasjóð á ári, verið fjarri öllu lagi, langtum of há, tóm stór orð, sem stryka hefði átt yfir þegar í upphafi, ellegar erindsrekar safnaðanna, og prestarnir með, hafa *ekki* gjört allt, sem í þeirra valdi stóð fyrir þetta skólamál, hafa heldr en ekki gleymt því að „nota hvert tœkifœri til að fá fé inn í skólasjóð.“

það var nú viðrkennt á kirkjuþinginu í sumar, að þessi

samskot frá seinasta ári hefði verið „hörmulega lítil". Og þó að reynt væri að afsaka það, bæði með því að peningaskortr hefði í fyrra almennt átt sér stað hér í landinu, og hinu, að annríki einstakra manna hefði verið svo mikið, þá kemr þó allskýr játning fram frá kirkjuþinginu um það, að menn hafi í sannleika vanrækt skyldu sína, að því er snertir þetta mál, á næstliðnu kirkjufélagsári. Til þess að bœta úr þessari vanrœkslusynd eru svo enn teknar hugrakkar og hreystilegar ályktanir viðvíkjandi málinu í framtíðinni. Því er slegið föstu, að skólinn þurfi í síðustu lög að vera kominn á fót um lok aldarinnar — innan 7 ára. það er sagt, að menn ætti nú að einsetja sér, að tvöfalda skólasjóðinn á þessu ári, eða með öðrum orðum að safna til hans á árinu um 15 hundrað dollara. Því er mótmælalaust haldið fram, „að allir erindsrekar safnaðanna verði nú að taka að sér skólamálið með brennandi áhuga og gjöra allt, sem í þeirra valdi stendr, til að hrinda því áfram". Og svo kemr kirkjuþingið enn fremr með svo látandi yfirlýsing: „Heiðr vor allra og velferð þess málefnis, sem vér erum að starfa fyrir, er í veði, ef vér ekki sýnum mikla og góða rögg af oss í máli þessu fyrir næsta kirkjuþing."

Ritstjóri blaðs þessa, sem eins og margir vita ekki átti kost á að sitja á þessu kirkjuþingi, er nú þingmönnunum hjartanlega samþykkr um það, að heiðr vor allra sé í veði, ef ekki verðr nú röggsamlega unnið að samskotum í skólasjóðinn af kirkjuþingsmönnum og öðrum þeim, er helzt standa fyrir kirkjumálum vorum. Að bœtt verði á þessu ári úr því, sem vanrœkt var í fyrra, það þorum vér þó því miðr ekki að vona. Vér höfum eigi reynslu fyrir því í sögu kirkjumála vorra frá liðinni tíð, að þegar kirkjulýðr vor eitthvert ár hefir látið vera að framkvæma það, er hann þá átti að framkvæma, þá hafi hann næsta ár á eftir bœtt þeirri byrði á sig í viðbót við þær framkvæmdir eða skyldur, er því ári til heyrðu, og þannig á þessum síðari tíma unnið tvöfalt verk. Reynsla vor er þvert á móti sú, að vanrœksla þess, er gjöra átti, á liðinni tíð, hefir á tímanum næsta á eftir lamað hjá mönnum vonina um það, að nokkuð yrði unnt að gjöra af félagsskyldunum öllum, sem þannig hafa hrúgazt saman og sýnast þá vera orðnar að ódraganda hlassi eða reglulegu Grettis-taki. Oss kemr því eigi til hugar, að bœtt verði á þessu ári úr vanrœkslusynd-

um safnaðanna frá síðastliðnu ári við skólamálið, eins og kirkjuþingið sýnist hafa áræt að vona. Því að eins víst og hverjum degi nægir sín þjáning, eins víst mun skylduþyrði hvers einstaks árs verða mönnum fullnóg, þó að eigi sé lagt ofan á hana það, sem vanrækt var árið á undan. Árið liðna er farið til ónýtis fyrir þetta skólamál og úr því verðr ekki bætt á þessu ári. Það er ekki nema til ills að vera að byggja nokkra slíka vonarinnar loftkastala, sem óðar eru hrundir. Heldr hugsi menn nú að eins um það, að gjöra það fyrir skólasjóðinn á árinu, sem ákveðið var á kirkjuþinginu í fyrra að árlega skyldi gjört. Ekki minna en eitt þúsund dollarar var þá sagt að mætti koma inn í skólasjóð á ári, ef viðunanlegt mætti kalla og gjört væri það, er gjöra mætti. Láti menn það verða að framkvæmd nú, og hugsi ekki um vanrækslusyndir liðna ársins.

En þó að ekki sé nú hugsað hærra en þetta fyrir hið yfirstanda ár, þá má óhætt segja það fyrir, að úr því verðr eigi nein framkvæmd svo framarlega sem dregið verðr í þetta sinn að vinna fyrir málið þangað til einhvern tíma undir vor eða jafnvel rétt fyrir kirkjuþing, eins og gjört hefir verið að undanförnu. Með því verðr fjársöfnunin tóm ómynd. Almenningr hefir þá yfir höfuð mjög lítið til af peningum, og einmitt á þeim tíma í útgjaldalegu tilliti í mörg horn að líta. Það var á kirkjuþinginu í sumar réttilega bent á haustið sem hinn hentugasta tíma til að leita fjársamskota til skólasjóðsins. Nú er sá tími ársins kominn eða fer þegar í hönd. Og nú verða því bæði kirkjuþingsmenn og aðrir helztu menn safnaðanna að taka til að vinna að samskotunum. Gjöri þeir ekkert, sem um munar, nú á þessum tíma, mun reka að því, að enn aumara verðr að hugsa til skólamálsins á næsta kirkjuþingi en á þessu seinasta. Og er þá sæmra að hætta allri vorri ómyndarlegu kirkjumálastarfsemi hið bráðasta og láta allt fara sem fara vill, heldr en með þessu móti að verða sér ár eftir ár til skammar og maklegs athlægis öllum andstæðingum kirkjunnar.

Vér heyrum það hvað eftir annað frá sumum kirkjumönnum vorum, að það sé ekki nema von, að illa gangi með bæði skólamálið og aðrar framkvæmdir, sem kirkjufélags-almenningrinn er að eiga við, þar sem hópr hinna opinberu andstæðinga kirkjunnar hjá oss sé svo fjölmennr, og svo fái þeir þess

utan svo og svo mikinn fjárstyrk frá hérlendum mönnum til þess að reka erindi sitt meðal fólks vors, en vér, sem kirkjufélaginu tilheyrum, verðum algjörlega að spila upp á eigin spítur. Þetta finnst oss nú fremr húsgangslega talað, enda er það fullkomin sannfœring vor, að það, hve ervitt gengr með hin kirkjulegu mál vor, að samskotunum til skólans fyrirhugaða þar með töldum, stafi ekki nema að mjög litlu leyti af mótspyrnu þeirri, sem er að mœta frá andstœðingunum utan kirkjufélagsins. Aðalorsökin er vissulega deyfðin og sinnuleysið hjá kirkjumönnum sjálfum, skortrinn á vilja hjá einstaklingum þeim, er í söfnuðunum standa, til að vera sínum eigin andlega félagsskap til nokkurs liðs, og þessi dœmalausa tilhneiging þeirra, er kjörnir hafa verið til að standa fyrir hinum einstöku kirkjufélagsmálum, til að bíða með alla vinnu fyrir þessi mál þangað til seinast á elleftu stundinni, bíða þangað til ómögulegt er að fá annan árangr upp úr vinnunni en ómynd. Það sagði einn greindr og gætinn safnaðarerindsreki á þessu seinasta kirkjuþingi, í sambandi við skólamálið, að til þess að komast vel og farsællega áfram og ná takmarkinu, yrði menn að fara hœgt og gætilega. Þetta er hverju orði sannara. Þegar allt er ógjört, sem gjöra átti á árinu, rétt áðr en farið er á kirkjuþing, þá er ekki nema tvennt til, og hvorttveggja illt; annað er það, að koma sér niðr á því, að ekkert hafi verið unnt að gjöra, finna upp yfirskynsástœður því til stuðnings, og láta fulltrúana flytja þær ástœður inn á þingið; en hitt er það, að fara hlaupandi á stað þarna á seinustu stundinni til þess, ef unnt væri, að vinna það upp, sem látið hafði verið liggja óunnið allt árið á undan. Að því er til skólamálsins kemr, hafa flestir söfnuðir kirkjufélagsins að undanförnu tekið hið fyr nefnda ráð, gjört bókstaflega ekki neitt; en hinir söfnuðirnir, þeir fáu, sem nokkuð hafa gjört, hafa mestmegnis látið fyrirberast í hinum síðar nefndu úrræðum, þeim, að kasta sér út í einhverja flaustrs-vinnu allra seinast á kirkjufélagsárinu, til þess að láta ekki erindsreka sína koma algjörlega tómhenta til þings. En með svona lagaðri félagsvinnu komast menn aldrei áfram, svo nokkru megi heita muna; það líðr svo mannsaldr, og hver veit hvað meir, áðr en kirkjufélagið á þennan hátt nær takmarkinu. Það eru engin önnur ráð, sem hér duga, en það, að leiðandi menn safnaðanna, kirkjuþingsmenn og aðrir, sé starf-

andi allt árið frá kirkjuþingi til kirkjuþings. Þá þarf enga hlaupavinnu, ekkert flaustrstarf, nokkurn tíma. Með því að vinna jafnt og stöðugt, hœgt og rólega, fyrir skólamálið, en með engu öðru móti, verðr unnt að ná takmarkinu.

En það má nú annars ekki búast við öðru en neyðarlegum árangri í skólamálinu og hverju öðru fyrirtœki, sem kirkjufélagið kann að hafa fyrir hendi, meðan fjármál hinna einstöku safnaða, margra hverra að minnsta kosti, standa eins báglega og þau venjulega gjöra hjá oss. Að vera svo stórkostlega á eftir tímanum með það fé, sem innan safnaðar þarf til þess að mœta fyrirfram ákveðnum árlegum útgjöldum, eins og víðast hvar á sér stað hér vor á meðal, það spáir sannarlega ekki fyrir því, að mikill árangr verði af fjárbónum í þeim sömu söfnuðum fyrir skólasjóðinn eða til annarra almennra kirkjufélagsþarfa. Og þetta, að menn verði árlega á eftir tímanum með sín eigin innansafnaðar-fjármál, það sýnist fremr vera að ágjörast heldr en hið gagnstœða. Það er vafalaust aftrför hjá oss í þessu tilliti nú upp á síðkastið. Sú aftrför þarf endilega að hætta. Það er fyrir löngu kominn tími til þess, að allir hinir stœrri og eldri söfnuðir kirkjufélagsins sé búnir að koma fjármálum sínum í það lag, að þau þurfi ekki að standa í vegi fyrir því að hœfileg samskot geti fengizt þar til skólasjóðsins. Það verðr endilega hið bráðasta að láta slíkt fjármálaólag í söfnuðunum hætta, þar sem það á sér stað. Því meðan það helzt við, mun svo mega að orði kveða, að allar framkvæmdir fyrir kirkjufélagið, sem nokkurt verulegt fé þarf til, sé ómögulegar.

Það er einatt borið fyrir af mönnum kirkju vorrar, þegar verið er að tala um það, hve illa gangi með samskotin til skólasjóðsins, að Únítarar og aðrir vantrúarmenn víðsvegar um hin íslenzku byggðarlög hér í landinu sé sí og æ að hamra það inn í almenning, hve gagnslaus eða jafnvel skaðleg stofnun hinn fyrirhugaði skóli kirkjufélagsins hlyti að verða, ef hann nokkurn tíma kœmist á fót. Fólkið bæði í söfnuðum vorum og utan þeirra trúi þeim prédikunum hjartansfegið, og svo detti því mörgu náttúrlega ekki í hug að fara að styðja það fyrirtœki með fjártillögum. Það getr nú verið undr notalegt, að bera fyrir sig þessa ástœðu fyrir því, hve lítið þessum fjársamskotum verðr ágengt. Það hefir oft verið reynt til að afsaka

sinn ónytjungsskap með því, sem ólíklegra er. En þessi afsökun er mjög léleg. Allr þorri kirkjufélagsmanna sitr þegjandi, meðan andstœðingarnir eru í rœðum og ritum að prédika um fánýti eða skaðsemi skólastofnunarinnar. Á kirkjuþingunum heitbinda menn sig til brennandi áhuga á málinu og ötullar framkvæmdarsemi fyrir það. En svo, þegar heim í söfnuðina er komið, sitja langflestir steinþegjandi um hið brennandi áhugamál og gjöra ekki hót til að ýta söfnuðum sínum áfram til framkvæmda málinu til stuðnings. Það er vissulega freistandi undir svona löguðum kringumstœðum að grípa til þeirrar afsökunar fyrir því hve illa gengr, að prédikanir andstœðinganna utan kirkju sé svo magnaðar og áhrifamiklar. En sannleikrinn er þessi: það, að svo illa gengr, er langtum fremr að kenna áhugaleysi og ódugnaði þeirra, sem kallað er að sé með, heldr en því, að mótspyrnan eða mótvinnan frá hinni hliðinni sé svo kröftug. Mótspyrnan, sem skólamálið verðr fyrir utan að, hefði lítið sem ekkert að segja, ef hugsunarháttrinn almennasti innan kirkju væri ekki eins erviðr og bágborinn eins og hann er. Þess vegna, væri skólamálið lifandi persóna, sem vissi fullkomlega um sínar núverandi lífsástœður, þá mætti það segja eins og maðrinn forðum: „Guð varðveiti mig fyrir vinum mínum; fyrir óvinum mínum skal eg varðveita mig sjálfr“.

Það dugir nú ekki, að skólamálið, málið, sem vér viðrkennum að sé hið mesta velferðarmál hins íslenzka þjóðflokks hér í landinu, eigi svona illt hjá sínum eigin vinum og sjálfsögðu talsmönnum. Kirkjumenn vorir mega nú tafarlaust til að verða nýir og betri menn, að því er þetta mál snertir. Þeir mega ekki sjá eftir því, að gefa skólasjóðnum eitthvað ofrlítið. Þeir mega ekki bíða með að láta eitthvað af mörkum skólanum fyrirhugaða til stuðnings þangað til þeir hafa bœtt úr öllum persónulegum þörfum sínum. Skyldan við þetta skólamál má með engu móti þoka fyrir öllum sjálfselsku-skyldunum. Ef samskotin verða nokkuð almenn, þá þarf enginn einn að leggja tilfinnanlega mikið til. En þá verða kirkjuþingsmenn og aðrir, er fremst standa í söfnuðunum, að hafa vilja til að opna munninn almenningi til upphvatningar.

Muni allir eftir því, að hausttíminn, hentugasti tíminn á árinu til að ná inn fé í skólasjóð, er kominn.

Og muni þeir, sem á kirkjuþinginu sátu í sumar, eftir þessari sinni eigin samþykkt:

„Látum alla þá, sem sitja á kirkjuþingi þessu, taka höndum saman um skólamálið í drottins nafni og heitstrengja það hver í sínu lagi, að gjöra það, sem honum er unnt.“

---

Úr húsvitjunar-fyrirlestri þeim, sem séra Ólafr Ólafsson — áðr í Guttormshaga, nú í Arnarbœli — flutti á *synódus* í sumar tilfœrir *Fjallkonan* þetta:

„það er sannast að segja, að vér, íslenzku prestarnir, höfum marga hnútuna fengið og hana ómjúka. Öðru megin hafa staðið Ameríkuprestarnir með ofsann og fjarstœðurnar, sem stórkostlega hefðu spillt málum kristindómsins hér á landi, ef það hefði ekki verið sumt hvað látið þjóta eins og vindr um eyrun. því þó að þeir hafi að líkindum ekki háar hugmyndir um oss, þá finnum vér samt, hvort sá, sem talar við oss, talar sem menntuðum manni sœmir, eða sem œðisgenginn drengr.“

Vér minntumst í vor hér í blaðinu ofr-lítið á þennan elskulega séra Olaf, sem kirkjan á Íslandi hefir nú fengið fyrir málbein. Vér tókum fram, að hann hefði í seinni tíð flutt einn fyrirlestr eftir annan út af nútíðarhögum þjóðar vorrar, einkum í andlegu tilliti. Og upp á spurninguna um það, hvað verið hefði efnið í þeim boðskap hans svöruðum vér þessu:

„Aðallega einmitt hið sama og það, er áðr var komið frá oss — — —: framtaksleysið í þjóðinni og hinn mikli skortr hjá henni á alvarlegri umhugsan um hennar eigin ástœður“.

Og ennfremr sögðum vér:

„Reyndar hefir fyrirlesari þessi ekki getað stillt sig um, upp á meiri manna móð, að skjóta inn í að minnsta kosti eina af þessum refsirœðum sínum mótmælandi umkvörtun um aðfinningar vorar héðan að vestan gegn íslenzkum þjóðlífsgöllum; en það gjörir ekkert til; hann talar eins fyrir því með svo sterkum orðum, sem hann virðist hafa átt til í eigu sinni, gegn því, er vér einu sinni leyfðum oss að kalla íslenzkan „nihilismus.“

Svo mörg voru nú þau orð. þau eru sönn og fremr meinhœg. það var örðugt að tala mildilegar um þessar frelsisprédikanir séra Ólafs, en þó hafa nú þessi ummæli verið nóg til þess

að hleypa suðunni upp í honum, þegar hann kemr með sitt allra nýjasta erindi fram fyrir *synódus*. það verðr eigi beinlínis séð, hvernig *synódus*-prestarnir hinir hafa tekið þessu. En eitt vitum vér, að þessir Ameríkuprestar, sem séra Ólafr á við, eiga vini í hópi þeirra, er sátu á *synódus*, sem allt öðruvísi hafa tekið hinum kirkjulegu orðsendingum frá oss héðan að vestan heldr en þessi sjálfkjörni talsmaðr prestastéttarinnar á Íslandi. Og annað er líka vert að muna. Á þessari *synódus* einmitt, þar sem séra Ólafur gjörir þetta áhlaup á oss, er stöndum fyrir kirkjumálum Vestr-Íslendinga, eru hafin samskot til hinnar fyrirhuguðu skólastofnunar kirkjufélags vors, og tekr í þeim samskotum þátt allr þorri *synódus*-mannanna. Eðlilega er séra Ólafr ekki með í því. En það er eins og hinir allir, er í samskotunum tóku þátt, hafi með því viljað sýna það í verkinu, að þeir dœmdi ummæli séra Ólafs um oss markleysu eina og bæri fullt traust til vor í kirkjulegu tilliti. Og fyrir þessa framkomu þeirra erum vér náttúrlega mjög þakklátir. Vér vissum það áðr, að vér eigum óvini nokkra af sama tagi og séra Ólafr er meðal prestanna á Íslandi, og höfum einmitt eignazt þá út af afskiftum vorum af kirkjunni heima. En að vér ættum meðal þessara sömu manna eins marga vini og fylgismenn eins og þessi síðasta *synódus* virðist bera vott um, það hefir oss að undanförnu ekki verið nærri því eins ljóst. Svo vér megum þakka séra Ólafi fyrir það, að hann með árás sinni á oss hefir útvegað oss þessa upplýsing.

Séra Ólafr segir, að ofsi og fjarstœður Ameríkuprestanna hefði stórkostlega spillt málum kristindómsins þar heima, ef það hefði ekki *sumt hvað* verið látið þjóta eins og vindr um eyrun. Svo það er þá eftir þessu *ekki nema sumt* af því, er vér höfum lagt til kirkjumála Íslands, sem hefir verið látið þjóta eins og vindr um eyrun. Séra Ólafr er á því, að eitthvað talsvert af orðum vorum hafi menn virkilega hlustað á og að tekið hafi verið tillit til þess. það getr verið, að þetta sé nú að eins lokleysu-ritháttr, eitt dœmi þess, hve bögglingslega og vitlaust þessi rithöfundr einatt gengr frá því, sem hann ætlar að segja. En nær liggr oss þó að ætla, að hér sé móti vilja hans ósjálfrátt að gægjast fram hjá honum sannfœring um það, að ekki nærri því allt, sem af oss hefir verið sagt um andlega ástandið á Íslandi,

hafi komið niðr dautt í kirkjunni heima. Séra Ólafr veit það líka manna bezt, að það er orðum þeim, sem héðan hafa töluð verið upp til Íslands, að þakka eða kenna, að hann sjálfr hefir farið að tala opinberlega svo margt og mikið um hin íslenzku þjóðlífsmein. það mætti náttúrlega segja, að vér höfum „spillt málum kristindómsins" á Íslandi með því að hafa orðið orsök til þess, að þessi prestr tók til að tala opinberlega, þar sem ýmislegt sé svo óheilsusamlegt og illa hugsað í þessum fyrirlestrum hans, t. a. m. margt af því, sem hann kennir í sínum kvenfrelsisfyrirlestri. Oss finnst þó endilega, að hann ætti að bera ábyrgðina á því, en ekki vér. En eigi endilega á oss að lenda ábyrgð fyrir fyrirlestra-syndir séra Ólafs, þá ættum vér líka að hafa heiðrinn af því, sem hann stundum kann að hafa talað í rétta átt um almenningsmál. Annars er þegar fyrir löngu komin fram marg-endrtekin viðrkenning frá ýmsum merkustu mönnum Íslands fyrir því, að Ameríkuprestarnir, sem séra Ólafi stendr svo mikill stuggr af, hafi virkilega haft nokkur önnur og meiri áhrif á kirkjuna heima en þessi, er nú voru nefnd. Og samskotin á synódus í sumar voru vissulega gjörð upp á væntanleg enn meiri þvílík áhrif í framtíðinni, ef oss skyldi auðnast að koma upp skóla kirkjufélags vors.

þar sem séra Ólafr líkir oss við œðisgenginn dreng, þá skulum vér minna hann á það, að einum miklum manni í kirkjunni var líka einu sinni borið það á brýn, að hann væri óðr, þegar hann talaði einhver þau kröftugustu sannleiksorð, sem nokkurn tíma hafa töluð verið. það hættir sumum mönnum við því þann dag í dag, þegar þeim sárnar við mótstöðumenn sína út af einhverjum sannleik, sem þeir hafa sagt, en rök vanta til að gjöra þann sannleik að engu, að segja þá um þá, að þeir séu óðir, eins og Agrippa sagði við Pál postula forðum daga. En heldr finnst oss nú, að það sé blettr á íslenzku kirkjunni, ef hún til lengdar skyldi hafa þann náunga fyrir talsmann sinn, sem hefir þessa auðvirðilegu aðferð.

---

það hefir dregizt fyrir oss að kvitta og þakka fyrir fyrirlestr hr. Sæmundar Eyjólfssonar um hinn ytra hag þjóðar vorrar nú og á fyrri tíðum, sem hann fyrir nokkru hélt á fundi Búnaðarfélagsins sunnlenzka í Reykjavík, en hefir síðan látið koma

út á prent í *Búnaðarriti* Hermanns Jónssonar. Ef vér hefðum rúm í hinu litla blaði voru, myndum vér láta það flytja lesendum vorum nokkur brot úr þeim fyrirlestri, svo þeir sæi, hvernig höfundrinn lítr á ástandið á ættjörðinni heima, og hve sterk rök hann fœrir fram til stuðnings því, er vér fyrir nokkrum árum héldum fram í *Lögbergi* viðvíkjandi þjóðlífinu á Íslandi.[1] Það var, eins og margir eflaust muna, svar vort upp á mótmæli þau, sem komu fram þar heima gegn ritlingi vorum *Ísland að blása upp.* Það svar má nú gjarnan fyrir oss gleymast; því að merginn málsins í þeim gömlu greinum vorum hefir nú sýnilega fengið fullkomna viðrkenning, þar sem annar eins maðr og hr. Sæmundr Eyjólfsson, einhver helzti endrbóta-maðrinn á Íslandi, hefir opinberlega flutt nákvæmlega samskonar kenning um nútíðarhag þjóðarinnar. Að sjálfsögðu erum vér höfundi fyrirlestrsins mjög þakklátir fyrir það að hafa haft áræði til að flytja þetta mál um aftrförina í þjóðlífinu íslenzka. Því þjóðin þarf að heyra þennan sannleika, þó að hann eðlilega sé mönnum ógeðfeldr, og hún þarf að heyra hann ekki að eins héðan vestan úr Ameríku, heldr einmitt frá sínum eigin vinum og starfsmönnum heima á Íslandi. Það mátti nú fyrirfram búast við, að vonzka hlypi í suma íslenzka „föðurlandsvini“ út af ýmsu því, sem hr. Sæmundr segir í fyrirlestrinum, enda er líka það nú mjög greinilega komið fram. *Fjallkonan* er bálreið við höfundinn fyrir þá kenning hans, að Íslendingum sé— fyrir utan efnahaginn — að fara aftr í dugnaði, iðjusemi og fleiri dyggðum, og þó einkanlega fyrir það, að hann skuli kenna blaðamönnunum um það, að þeir hafi með glamri sínu vakið hjá almenningi ótrú á landinu og atvinnuvegum þess. Kallar blaðið þetta ýmist marklausar dylgjur eða tóm ósannindi. Það má búast við, að fleiri taki erindi hr. Sæmundar eins og *Fjallkonan*, en þess erum vér hins vegar fullvissir, að sannleikrinn verðr áðr en mjög langt líðr svo almennt viðrkenndr á Íslandi, að hvorki blaðamenn né aðrir þora lengr að berja höfðinu við steininn.

---

1) Meðan ritstjóri „Sam“. dvaldi í Park River í sumar, fékk hann bréf frá einum vini sínum hér í landi, þar sem þetta stendr í: „Eg hefi nú lesið fyrirlestr hr. Sæmundar Eyjólfssonar. Þér sjáið brotið af honum í *Lögbergi*; það er agætr lestr, og alveg tekin upp yðar röksemdaleiðsla um samkeppnina frá *Lögbergi* 1889. Eg er allt af að fá meira og meira til ofrs fyrir þeim manni, og gæti trúað því, að hann sé myndarlegastr af öllum ungum mönnum á Íslandi.

*Andvari*, tímarit þjóðvinafélagsins, kemr í ár með mynd af Pétri biskupi Pétrssyni og æfiminning hans eftir dr. Grím Thomsen. Það er mjög lítið ritverk að vöxtunum — ekki nema lakar fimm blaðsíður. En þrátt fyrir það virðist oss meira varið í þessa æfiminning en venjulegar íslenzkar æfiminningar, þótt mörgum sinnum sé lengri. Það kemr fram í þessari undr stuttu ritgjörð svo skarpr og réttr skilningr á Pétri biskupi og verkum hans, að oss þykir ólíklegt, að unnt sé þar að komast nær sannleikanum. Auðvitað eru þar að eins aðalatriði dregin fram, öllu smávegis sleppt; en það er eins og maðr fái eins fullkomna mynd af manninum fyrir því. Höfundrinn tekr fram, að eigi æfiminningar að hafa nokkra þýðing, þá verði að sneiða jafnt hjá ofhóli sem oflasti. Á hinu fyr nefnda skeri hefir íslenzkum æfisagnahöfundum mjög hætt við að stranda. En Grímr Thomsen sleppr vel út úr hvorritveggja hættunni. Pétr biskup hefir aldrei fyr opinberlega verið dæmdr eins heima á Íslandi og gjört er í þessari æfiminning. Sumir af oss hér hafa að vísu haft mjög svipaðan skilning á þessum fyrverandi forustumanni íslenzku kirkjunnar og verkum hans, en sá skilningr þótti mörgum bæði hér og á Íslandi hin mesta fjarstæða og óhæfa. Fróðlegt er því vissulega nú fyrir lesendr vora að athuga það, sem segir um Pétr biskup og verk hans í þessari nýjustu minning um æfi hans. Í því skyni setjum vér hér þessi smábrot úr æfiminningunni:

„Gáfur hans voru fremr farsælar en miklar, sér í lagi var hann ríkulega útbúinn með þeim hyggindum, sem í hag koma". — — „Hann var, eins og Snorri Sturluson kemst að orði um Harald konung Sigurðarson „ágjarn til allra farsællegra hluta", en „hann brúkaði aldrei stöðu sína né auðsæld til að kúga neinn né misbjóða". — — „Hafi Pétr biskup, eins og margan kappsmann vill henda meðan hann er að ryðja sér til rúms, á stundum beitt olnbogunum til þess að komast út úr þyrpingunni, þá var hann manna fúsastr til að bæta úr því eftir á, sem hann kynni að hafa ofgjört, að svo miklu leyti sem það var hægt". — — — „Hann var stilltr maðr vel, stjórnaði manna bezt geði sínu og tilhnegingum, og varð þess betri maðr sem hann varð eldri". — — — „Um prédikanir hans hafa sumir sagt, að honum hafi tekizt kennimanna bezt að sýna fram á, hvernig úlfaldinn eigi að fara að til að komast í gegnum nálarauga𝔡, en það er hvort-

tveggja, að það, eftir orðum frelsarans, er sælla að gefa en þiggja, enda veitir eigi af því á voru landi, — — — —, þó brýnt sé fyrir almenningi. að sælla sé að vera aflögufœr til annarra en gustukamaðr þeirra". — — „Og of mikið virðist mega af því gjöra, að halda uppi heiðri Lazarusar eingöngu af því hann var Lazarus. En hvernig sem menn svo dœma um hina kennimannlegu stefnu Pétr biskups, þá er það víst, að þar er ekkert kennt, sem eigi sœmir góðum og guðhræddum manni".

Hefði æfiminning þessi verið rituð af guðfrœðingi, myndi þar nákvæmar hafa verið gjört grein fyrir kristindómsstefnu þeirri, er ræðr í prédikunum Pétrs biskups, og sýnt fram á, að hve leyti hún er frábrugðin nútíðarprédikan lútersku kirkjunnar.

---

## *ROCK OF AGES.*

Eftir *A. M. Toplady.* Þýðing eftir séra Mattías Jokkumsson.

---

1. Hellubjarg og borgin mín,
byrg þú mig í skjóli þín;
heilsubrunnr öld og ár
er þitt djúpa hjartasár;
þvo mig hreinan, líknarlind,
lækna mig af allri synd!

2. Heilög boðorð, herra, þín
hefir brotið syndin mín;
engin bót og engin tár
orka mín að grœða sár;
ónýt verk mín, ónýt trú;
enginn hjálpar nema þú.

3. Til þín, guð, með tóma hönd
titrandi eg varpa önd;
nakinn kem eg, klæddu mig,
krankr er eg, grœddu mig;
óhreinn kem eg, vei, ó vei!
væg mér, herra, deyð mig ei!

4. þar til æfiþrautin dvín,
þar til lokast augun mín
og eg bak við sólna sól
sé þinn mikla dómsins stól,
hellubjarg og borgin mín,
byrg þú mig í skjóli þín!

Séra Mattías Jokkumsson kom heill á hófi úr sinni Ameríkuferð heim til Akreyrar hinn 19. Sept. Seinasti áfanginn á heimleiðinni var stríðr og harðsóttr, því að danska póstskipið, sem hann ferðaðist með frá Skotlandi, mœtti kólgubyl og kafaldi eftir að komið var upp undir Ísland, og lá undir áföllum heila nótt norðr af Grímsey. Að öðru leyti gekk honum vel heimförin héðan. Hann býst við, að gefa út ofrlítinn ritling um þessa för sína í Vestrheim.

Ritstjóri *Sameiningarinnar* hélt hinn 4. þ. m. fyrirlestr í lútersku kirkjunni íslenzku hér í bœnum um *kærleikann* eða „það, sem mest er í heimi“. Hinir stórfrægu ensku sálmar *Rock of Ages* og *Nearer my God to Thee* í íslenzkum þýðingum eftir séra Mattías Jokkumsson voru sungnir við það tœkifœri. Þýðingin af fyrra sálminum kemr í þessu nr.i blaðs vors. *Toplady*, höfundr þess sálms, var uppi á Englandi á sama tíma og *Wesley*, Meþodistinn alkunni, og andstœðingr hans í guðfrœðinni, og dó árið 1778. *Rock of Ages* er frægastr allra sálma á enskri tungu.

Séra Steingrímr Þorláksson lagði ásamt konu sinni á stað hinn 21. fyrra mánaðar frá New York austr um haf til Noregs, þar sem hann ætlar að dvelja nokkra mánuði, ef til vill fram í Marz eða Apríl 1894. Vér vonum og óskum, að þessi ferð verði honum og þeim báðum hjónunum til ánœgju. Séra Steingrímr hefir í huga að ganga á guðfrœðisfyrirlestra við hinn norska háskóla meðan hann dvelr þar í höfuðborginni. Adressa hans er Vessels Gade 5, Christjania, Norway.

Í fjarvist séra Steingríms þjónar séra Björn B. Jónsson frá lokum þessa mánaðar eina tvo eða þrjá mánuði í söfnuðum hans.

## *TIL KAUPENDA BLAÐSINS.*

Í sumar á kirkjuþingi var *Sameiningin* í rúmra 80 dollara skuld; en á sama tíma átti blaðið úti standandi hjá áskrifendum *hálft fjórtánda hundrað dollara*. Síðan hefir miklu minna fé

komið inn til blaðsins en það, sem orðið hefir að borga fyrir prentunarkostnað o. fl. — Hér í Winnipeg-bœ einum eru nú yfir 400 dollarar, sem „Sam.“ á hjá áskrifendum. Allr þorri þessara manna *getr* víst borgað það, sem þeir skulda blaðinu. Og vér efumst ekki um viljann hjá mörgum. En gleymska hefir sjálfsagt fyrir flestum verið í vegi, bæði þessum Winnipeg-mönnum og öðrum út um byggðir Íslendinga. — En, í hamingjubœnum, gleymið því nú ekki lengr, að borga blaðinu það, sem það á hjá yðr. Það er lítt þolandi, að „Sam.“ skuli þurfa að vera í vaxandi skuld, þar sem hún á svo mikið fé í eigu sinni, ef áskrifendr ekki héldu því föstu. — Borgið skuld yðar nú tafarlaust, allir þér, sem getið! Féhirðir blaðsins er hr. Magnús Pálsson, 588 Jemima Str., eða Harris Block, Room 12, Cor. Main & Market St. Þeir, sem vilja, hér í bœnum, geta líka borgað séra Hafsteini Pétrssyni, 588 Jemima St., það, sem þeir skulda „Sam.“

---

Lexíur fyrir sunnudagsskólann; fjórði ársfjórðungr 1893.
10. lexía, sunnud. 3. Des.: Þakklát hlýðni (Jak. 1, 16—27).
11. lexía, sunnud. 10. Des.: Hin himneska arfleið (1. Pét. 1, 1—12).
12. lexía, sunnud. 17. Des.: Frelsarinn dýrðlegr orðinn (Op. 1, 9—20).
13. lexía, sunnud. 24. Des.: Fœðing Jesú (Matth. 2, 1—10).
14. lexía, sunnud. 31. Des.: Yfirlit.

---

Hr. *Sigrbjörn Sigrjónsson* sendir "Sameininguna" út. Adressa hans er: 401 Ross St. Til hans snúi menn sér viðvíkjandi afgreiðslu blaðsins.

---



---

„SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Fifth Ave. N., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Stgr. Þorláksson, Magnús Pálsson, Jón Böndal.

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.